# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, SEPTEMBER 1893. Nr. 7.

## *ÚT AF 77. DAVÍDS SÁLMI.*

*Eftir séra Valdemar Briem.*

(Lag: Vertu hjá mér; halla tekr degi.)

1. Kalla eg til þín í mínum þrautum,
þú, minn guð, á háum ljóssins brautum,
dimmri nótt og degi björtum á;
drottinn, þú mín andvörp heyrir þá.

2. Oft eg hljótt í hvílu minni vaki,
hugsa eg um það, hvað nú við taki.
Þó að varir varla bærist þá,
veit eg, guð, að þú mig hlustar á.

3. Hugsa eg til hinna fyrri daga:
horfnir eru þeir sem liðin saga;
minnist eg hin fornu árin á,
ýmsar horfnar myndir vakna þá.

4. Hugsa' eg um, hve allir þínir vegir
áðr fyrri voru dásamlegir;
minnist eg hin fornu undrin á.
Ertu breyttr, guð minn? hugsa' eg þá.

5. Nei, minn guð, þú aldrei, aldrei breytist,
aldrei þú á miskunnsemi þreytist.
Enn þá birtast undrin náðar há,
enn þá má þitt dýrðarveldi sjá.

6. Forðum, drottinn, fljótin klaufstu sundr,
flýðu bylgjur við þau tákn og undr.
Enn þú hastar harmabylgjur á,
hrökkva þær í burt við skipan þá.

7. Forðum lá þín leið um hafið djúpa,
lézt þú öldur dularspor þín hjúpa.
Enn ert þú á æfisjó oss hjá,
oft þótt vér ei spor þín megum sjá.

8. Forðum, drottinn, fólk þitt vel þú leiddir,
för þess gegnum eyðimörku greiddir,
fyrirheitna fagra landið á;
fólk þitt enn lát reyna miskunn þá.

---

## FRAMTÍÐAR-STEFNA KIRKJUFÉLAGS VORS.

---

Hinn ónefndi höfundr bréfkaflans frá Íslandi í síðasta nr.i blaðs þessa brýnir það all-sterklega fyrir oss, að menn kirkjunnar hafi nú sérstaklega mikla skyldu til þess að halda saman og varast að lenda í deilum, þótt þá kunni að greina á, að því er snertir hin smærri trúaratriði. Bréfritarinn er eiginlega ekki að tala um kirkjuna og hennar menn víðsvegar um heiminn, heldr kirkjuna íslenzku og hennar menn bæði heima á Íslandi og hér vestan Atlanzhafs. Og bendir hann á ýms þýðingarmikil teikn tímans í þjóðlífi voru, sem ætti að vera öllum þeim mönnum þjóðar vorrar, er í sannleika hafa kristindóminn kæran, nœgileg hvöt til þess, eins og hann kemst að orði, að "halda saman og fast við aðalgrundvöllinn, sem er Kristr." "Hitt ætti þeir," segir hann enn fremr, „að geyma, að stæla um einstök trúfrœðisatriði sín á milli. En hver góðr drengr verðr

að leggja lið sitt fram til að vernda hjartað í hinni kristnu opinberan.“

Því verðr nú víst eigi neitað, að þau teikn tímans, er höfundi bréfsins virðist ætti að knýja alla íslenzka kristindómsvini til þess sameiginlega að standa upp til varnar hjartanu í hinni kristnu opinberan, eru býsna ískyggileg, og hann á þakkir skilið fyrir að hafa á þau bent. Það hefir oss vitanlega eigi fyr eins greinilega verið minnzt á það, hve mikið af blöðunum íslenzku beggja megin hafs er innblásið af anda, sem gagnstœðr er kirkju og kristindómi. Og það er fleira í sömu áttina, sem höfundrinn í örfám orðum minnir á því máli sínu til stuðnings, hve brýn nauðsyn ber til þess, að allir kirkjumenn þjóðar vorrar standi hver með öðrum og láti sem allra minnst bera á sundrlyndi eða ágreiningi um andleg efni.

En hversu samþykkir sem vér erum höfundinum um þau vantrúarteikn, sem hann bendir á í nútíðarlífi þjóðar vorrar, þá fáum vér eigi séð, að það hljóti endilega að vera nauðsynlegt eða jafnvel rétt, að þeir, sem ganga undir sameiginlegum kristindómsmerkjum eða með öðrum orðum hafa sömu trúarjátning, skuli út af þessum ískyggilegum teiknum tímans varast svo sterklega að láta opinberlega koma fram ágreining þann út af trúarmálum, sem vitanlega á sér stað þeirra á meðal.

Það hefir marg-oft verið sagt á öllum öldum kristninnar, að allr trúmála-ófriðr meðal kristinna manna væri rangr og fordœmanlegr; þeir ætti allir að standa saman sem einn maðr og eigi láta mismunandi skoðanir á einstöku minni háttar trúaratriðum eða fyrirkomulagi á kirkjunni hið ytra raska friðinum í mannfélagi kirkjunnar. Og svo hefir verið sagt, að það, hve seint kristinni kirkju ynnist að leggja heiminn undir sig, stafaði að miklu leyti af því, hve mikill ágreiningr og ófriðr væri innan sjálfrar kirkjunnar, hve miklar deilur meðal kirkjunnar manna út af smá-atriðum þeim, er orðið hafa orsök til hinnar kirkjulegu flokkaskiftingar. Að oft hafi verið óþarfa-deilur og fordœmanlegr ófriðr uppi í kirkjunni, því neitar víst enginn. Og að kristnir menn hafi heilaga skyldu til þess að kappkosta að varðveita eining andans í bandi friðarins, því hljóta líka allir að játa. En það er vafalaust í nútíðar-kirkjunni íslenzku meira af fölskum friði heldr en fölskum ófriði. Að komast af bar-

áttulaust og ófriðarlaust í kirkju, sem heita má lifandi, er óhugsanlegt. Kristindómrinn heimtar einmitt baráttu af áhangendum sínum. Og sú barátta er ekki eingöngu og jafnvel eigi fyrst og fremst út á við, gegn opinberum óvinum kristinnar trúar utan vébanda kirkjunnar, heldr líka inn á við, og það fyrst og fremst, gegn öllu ranglætinu, allri fölsku trúnni og allri hinni hróplegu heimsku innan kirkjunnar sjálfrar. Og þess erum vér fullvissir, að hinir íslenzku kirkjumenn verða sér til skammar í baráttu sinni gegn vantrúnni fyrir utan sinn eigin hóp, svo framarlega sem þeir hafa ekki hugrekki og heilaga trúarhvöt til að standa uppi í ófriði gegn hinu marga inni í kirkjunni, sem heldr fólkinu burtu frá guði og sannleikanum.

það er talað um, að kristnir menn eigi ekki að deila út af smáatriðum. En hvað eru smáatriði? Smáatriðin bæði í kristinni trú og öðru eru einatt óðar en nokkur veit af orðin að stóratriðum. Og af því að svo er, getr t. a. m. einatt verið meira áríðanda að varpa sér út í ófrið út af því, sem í fljótu bragði virðist mega kalla smáatriði í ranga stefnu innan kirkjunnar, heldr en út af einhverju svo kölluðu stóratriði, er blasir við öllum, hættulegt og fráfælanda, fyrir utan hóp kirkjumannanna. það þarf enginn að leggja sig í baráttu til að koma því inn í kristinn almenning, að málgögn Únítaranna íslenzku hér í landi eða "Fjallkonan" og "þjóðviljinn" úti á Íslandi sé uppi á móti kristni þjóðar vorrar. Vantrúin þeirra er svo stórvaxin, svo mikið stóratriði, að hana geta allir séð hjálparlaust. Hitt aftr á móti hefir þurft baráttu til í liðinni tíð, og mun eigi síðr þurfa baráttu til í ókominni tíð, að sannfæra fólk um það, að kirkjan heima á Íslandi gengr með svo og svo margar frjóagnir til sömu andlegu eitrjurtanna eins og þeirra, er nú þróast svo vel í þessum blöðum. Vantrúarfrjóagnirnar eru tiltölulega svo undr litlar, svo mikil smáatriði, að á þær fær fjöldi fólks með engu móti komið auga, nema því að eins að því sama fólki sé komið til hjálpar; og hjálpin þarf þá einatt að vera fólgin í því, að hrópað sé um þetta hátt og með hörðum orðum. Oss, mönnum lútersku kirkjunnar hér, hefir einatt borið það á brýn, að vér værum of miklir ófriðarmenn, værum jafnt og þétt að deila á vora eigin trúarbræðr og kirkjulegu samverkamenn hinum megin við hafið fyrir það, sem þar er að í kirkjunni, og héldum þannig of lítið saman

við þá. það getr litið svo út, að vér höfum þar syndgað móti móðurkirkju vorri. En þegar hin svo kölluðu smáatriði í öfuga átt, sem snerta trúarlífið, eru flutt með mönnum austan yfir haf hingað inn í nýjan heim, þá sést það brátt svo vel, að mörg af þeim smáatriðum hafa verið stóratriði, því á örstuttum tíma eru hin ýmsu frœkorn villu og vantrúar og heimsku, sem þeir og þeir kirkjunnar menn og aðrir andlegir þjóðarleiðtogar hafa sáð í mannlífsakrinn þar, hérna megin hafsins sýnilega sprottin upp meðal hins útflutta fólks eins og undrnjólinn í sögu Jónasar spámanns, en vel að merkja ekki til þess að veita neinum skjól og skugga, heldr að eins til þess að villa sjónar fyrir mönnum, svo að mörgum finnst þeir hafi þess enga þörf, að leita hœlis innan sinnar eigin kirkju, og liggja svo í andlegum skilningi úti á köldu dauðans bersvæðinu og eiga hvergi heima. þegar þessu er ekki gleymt, þá mun það augsýnilegt, að þeir, sem staðið hafa fyrir andlegum málum Vestr-Íslendinga, hafa eigi án allrar ástœðu hrópað heim yfir hafið um hinar hættulegu skekkjur í þjóðlífinu og kirkjunni þar, sem leiðtogar lýðsins og margir aðrir kalla smáatriði og flestum sýnist megi átölulaust vera í friði.

Kirkjufélag vort lúterskra Íslendinga í þessu landi hefir margs að gæta, þá er kemr til skyldunnar um að halda saman við trúarbrœðr vora heima á vorri kæru fóstrjörð. Að svo miklu leyti, sem móðurkirkjan þar heldr sér í starfi sínu og stríði á sínum eigin grundvelli, guðs orði heilagrar ritningar, samkvæmt hinni lútersku trúarjátning, er auðvitað sjálfsagt fyrir kirkjufélag vort að halda trúlega í hönd hennar, þar sem vér höfum líka skuldbundið oss til að standa í andlegu tilliti á sama grundvellinum með allt það, sem vér eigum, erum og gjörum. Enda vitum vér og verðum í allri ókominni tíð að vita, að það væri svik við það land, er vér höfum eignazt hér eins og nýtt föðurland, að láta eigi það, sem göfugt er og guðlegt í hinum íslenzka arfi vorum, halda hér lífi með oss, heldr varpa því öllu fyrir borð um leið og vér erum að nema hér land í andlegum skilningi. En sem sjálfstœðir menn verðum vér að standa hér, einnig í kirkjulegu tilliti, svo að vér eigi látum það, sem uppi er í kirkjunni á Íslandi, vera í neinum skilningi lögmál fyrir oss fremr en vér sjáum að getr verið til

blessunar, heldr teljum oss hafa bæði rétt og skyldu hér eftir eins og að undanförnu til þess að berjast á móti hinum ýmsu afvegaleiðandi röddum, sem þar láta til sín heyra, jafnframt því eftir megni með þakklátri viðrkenning að halda öllu því upp að augum kirkjulýðs vors hér, sem þar heima er vel og heiðarlega gjört. Í þessum tilgangi viljum vér af öllu hjarta halda saman við brœðr vora í kirkjunni heima. Og vér fáum eigi skilið, að barátta vor gegn fylking vantrúarinnar, sem bréfritarinn talar um, þurfi að verða nokkuð áhrifaminni og afllausari fyrir það, þótt vér jafnframt stöndum upp til mótmæla gegn því, sem vér sjáum eða heyrum rangt og skaðsamlegt í hópi vorra eigin trúarbrœðra hvar sem vera skal.

En svo verðr líka ávallt að muna eftir því, að vér höfum hér volduga trúarbrœðr í landinu, er vér lífsnauðsynlega verðum að fylgjast með og að miklu leyti að halda saman við. það er hin mikla lúterska kirkja annarra þjóða í Ameríku, sem brunar hér fram með langtum meira vexti hið ytra en nokkur önnur prótestantisk trúardeild. Að trúarlífið þar sé yfir höfuð að tala bæði framkvæmdarsamara og heilbrigðara en í kirkju Íslands nú á tímum, um það efast líklega fáir, sem að mun þekkja til á báðum stöðunum. Vantrúarmennirnir íslenzku hér hafa einatt minnt oss á það, að oss muni svo bezt þoka áfram í þessu landi, að vér einblínum ekki á Ísland, heldr lítum til hérlendra manna og lærum sem fyrst að verða eins og þeir. Vér tökum þessari áminning, að því undanteknu auðvitað, eins og þegar er tekið fram, að vér leyfum oss að líta til Íslands og hafa gætur á, hverju þar fer fram, og köstum ekki neinu því, er nokkurs er virði í föður- og móður-arfi vorum. Út frá þessari sannfœring viljum vér, þá er tími er til þess kominn, setja hinn fyrirhugaða skóla kirkjufélags vors á stofn og yfir höfuð halda uppi öllum þeim kirkjulegu fyrirtœkjum, sem vér teljum oss nauðsynleg, samkvæmt dœmi allra lúterskra kirkjudeilda hér í álfu. Svo skyldugt álítum vér oss eigi að halda saman við kirkjuna á Íslandi eins og það af lútersku kirkjunni í þessari heimsálfu, sem stendr oss næst. þegar kirkjunni heima ber á milli og hinni lútersku kirkju við hlið vora hér í landinu út af lærdómi trúarinnar eða kristindómsstefnunni yfir höfuð, þá búumst vér við að fylgja kirkjunni hér og eiga þar af leiðanda á

hættu, að standa uppi í andlegri baráttu við bræðr vora heima. Og er vér veljum oss þá hliðina, göngum vér út frá því sem vísu að hafa hina lútersku kirkju í Evrópu með oss, með því vér vitum, að hún í allri sinni aðalstefnu heldr sama stryki og aðalkirkjudeildirnar lútersku hér vestra. Með allri virðing fyrir hinni íslenzku móðurkirkju vorri leyfum vér oss að segja, að hún hefir að ýmsu leyti einangrazt út frá hinni lútersku kirkju úti í löndum—hún eins og þjóðin yfir höfuð. Og að því leyti, sem hún framvegis vill halda sinni einangran, hljótum vér að stefna nokkuð aðra leið og reyna að fylgjast að með trúarbræðrum vorum hér, en jafnframt gjöra það, sem í voru valdi stendr, til þess kirkjan heima komist úr sinni einangran og vér og þeir þar heima getum sem allra mest orðið samferða.

## "ÍSLAND AÐ BLÁSA UPP."

Í ræðunni, sem Jón Ólafsson hélt hér í Winnipeg á Íslendingadaginn í sumar, var hann að glíma við 5 ára gamlan fyrirlestr eftir ritstjóra þessa blaðs: *Ísland að blása upp*[1]), og þóttist víst í ræðulok vera búinn að leggja að velli gjörvalla kenning vora, sem það litla rit hefir inni að halda, sýna og sanna ómótmælanlega, að það væri nokkuð allt annað en "uppblástr", sem einkenndi þjóðlíf Íslands á þessum síðustu tímum: framfarir og frelsi og allt í þá áttina. En svo kom, áðr en mánuðr var liðinn frá því ræðan þessi var haldin, fréttin heiman af Íslandi um lögin þessi dæmalausu, sem verið var að smíða í sumar á alþingi af nokkrum merkustu og fremstu mönnum þjóðarinnar til þess að klafabinda hvert landsins barn við sínar fæðingarstöðvar, kúga alla þá mörgu til að sitja kyrrir, sem langar burt úr landinu til þess að bæta kjör sín í betra landi, svifta hvern landsins einstakling hans persónulegu frelsi til þess að mega dvelja þar sem honum gott þykir.—Ef þetta svívirðilega lagafrumvarp ekki bendir á það, að andlegr "uppblástr" sé í pöli-

1] Nokkur exemplör af ritlingi þessum, sem prentaðr var í Reykjavík árið 1888, eru enn til óseld hjá höfundinum. Sumir eru nú líklega búnir að gleyma, hvað í fyrirlestrinum er fært til þess, að Ísland sé að "blása upp", og gæti þeir ryfjað það upp fyrir sér aftr með því að fá sér smárit þetta, sem aðeins kostar 10 cents, og lesa það á ný.

tiska lífinu á Íslandi nú á þessum síðasta tíma, meiri, ljótari, hræðilegri nú en nokkurn tíma áðr í sögu þjóðarinnar, þá eru ekki heldr sannanir til fyrir tilveru nokkurs skapaðs hlutar. Og þó að þetta uppblástrs-merki sé nú líklega ljótast af öllu, þá fer því fjarri, að það standi alveg eitt uppi. Það er svo skammt síðan minnzt hefir verið í blöðunum á ofbeldistilraun Reykvíkinganna sumra, menntuðu mannanna einmitt, eftir því sem kallað er, til þess að svifta einstaka menn málfrelsi, og líka svo skammt síðan tíðindin komu um *anarkista*-leyfið, sem flokkr manna í einni byggð Íslands tók sér til að refsa einu sínu yfirvaldi upp á sína vísu, að lesendr vorir geta víst ekki verið búnir að gleyma þessu. Svo það eru sannarlega til mörg merki þess, að megn "uppblástr" er nú í hinum pólitiska frelsisakri heima á Íslandi, og því fór fjarri, að vér gætum bent á neitt eins stórkostlegt merki hins andlega uppblástrsins í þjóðlífi Íslands, þá er fyrirlestr vor varð til, eins og nú er fram komið og öllum oss Íslendingum hér vestan hafs sýnilegt.—Vér töluðum líka eitt sinn um það, er vér nefndum *íslenzkan nihilismus*. Lagafrumvarpið góða, sem þegar var um getið, bendir nú óneitanlega á það, að íslenzki nihilismusinn sé að blása sig upp til að verða meira en lítið *rússneskr* Rússum er við brugðið fyrir sína harðstjórn og sína þrælahlekki. En önnur eins lög til að binda vesalings alþýðuna fasta við eymda-bœlið hennar heima eins og frumvarpið þetta, sem í ár skapaðist á alþingi Íslendinga, hafa aldrei sést í Rússlandi. Mennóníta-nýlendurnar í Manitoba og víðar hér vestra minna vel á þennan sannleik. Þá er stríðið síðasta stóð yfir milli Rússa og Tyrkja fyrir einum 16 árum, var Mennónítum, sem á Rússlandi bjuggu, eins og öðrum þegnum Rússakeisara boðið að ganga í herþjónustu og berjast gegn óvinum hins rússneska ríkis[1] ). En til þess voru þeir ófáanlegir fyrir þá sök, að trúarbrögð þeirra banna þeim alla hermennsku, er þeir á líkan hátt og Kvekarar skoða sem synd. Hvað skyldi nú hafa verið gjört við þessa vesalings Mennóníta, hefði löggjafarnir íslenzku, sem í ár gjörðu þetta frægðarverk á alþingi, setið sem ráðgjafar í kring um keisarann í Pétrsborg? Vér skulum láta alla ráða þá gátu sjálfa. Til þess þarf ekki mikla

1] Fyrir 1871 voru þeir undanþegnir herþjónustu í Rússlandi, en það ár misstu þeir þann undanþágu-rétt að stjórnarboði.

spádómsgáfu. En það, sem Rússa-stjórn gjörði, var þetta: Úr því þessi mannflokkr, Mennónítarnir, eigi gátu fullnægt þegnskyldu sinni sökum trúarbragða þeirra og því eigi dvalið í landinu eins og aðrir borgarar, þá leyfir stjórnin þeim á tíu árum að flytja burt og taka sér framtíðar bólfestu hér vestan Atlanzhafs.

Af tvennu illu er ólíkt betra að vera rekinn burt úr föðurlandi sínu, ekki sízt þegar atvinnuvegirnir þar eru eins þröngir og á Íslandi, heldr en að vera lokaðr inni í föðurlandi sínu, og mega ekki, hvað sem þar kreppir að, komast þaðan burt til þess að leita sér að betri bústað annarsstaðar í heiminum.

þeir tala mikið um kærleik þar heima, höfðingjarnir sumir, andspænis kærleiksleysi vor Vestr-Íslendinga. Nú fara menn að sjá, hvernig sumt af þeim kærleik lítr út.



Í ræðu, sem séra Mattías Jokkumsson flutti í kirkju Argyle-safnaða við opinbera guðsþjónustu meðan hann dvaldi þar í byggðinni, talaði hann um samband hinna útfluttu landa sinna við föðurlandið Ísland og vísdómsfulla forsjón guðs, sem stýrt hefði för burtflytendanna til þessa mikla lands, og sagði meðal annars þetta: "þú, ungi maðr, eg segi þér: rís þú upp!" sagði Jesús. þessi orð eru eins og til þín töluð, þú, ungi Íslendingr, sem deyr ættjörðinni heima til þess að rísa upp og lifa í þessu landi. þú varst sem dauðr út borinn; þú sást landið, sem ól þig, hverfa og hið kalda haf skola þér fjær og fjær öllu, sem þú elskaðir og þekktir. Og þú kallaðir grátandi og örvinglaðr: "Hvað er langt heim?" þú ákallaðir guð í neyðinni. Og Jesús Kristr gekk nær þínum líkbörum—sorg þinni og örvinglan, nær þér, þar sem allir töldu þig af og sumir grétu þig með móður þinni, sem var ekkja, og aðrir gjörðu hávaða og göbbuðu þitt flas og hlógu að þínum óförum. Jesús kom nær, hóf upp sína guðdómlegu raust og sagði: "þú, ungi maðr, eg segi þér: rís þú upp.' Og þú reist upp, og hann gaf þig aftr móðurinni. þér skiljið allir þessa samlíking, að þér hafið allir verið líkir syni ekkjunnar í Naín, og nema rödd Jesú tali upprisunnar alfrelsisorð yfir hverju ungmenni, og tali það aftr og aftr, leggst hann í sína gröf og deyr sem aumingi.——þú, ungi Íslendingr í þessu

landi, heyr þú, heyr óaflátanlega rödd drottins, rödd lífgjafans, rödd frelsarans, rödd hins góða hirðisins: "Rís þú upp!"——— Líf þitt og framtíð hlýtr, ef vel á að fara, að vera sífelld upprisa frá dauðum. Fáðu, Vestr-Íslendingr, fyrir kraft guðs því fegri framtíð sem stríð þitt hér var meira í byrjaninni, og því meiri frægð og vegsemd sem hlutlekning sú og virðing var minni, er þér í fyrstu var sýnd af þínum nánustu.———"Hvað er langt heim?"—Haf það fyrir heróp um leið og þú stöðugt keppir heim til hins himneska föðurlandsins. Þá verðr framtíð þín mikil. Og Ísland, hin forna ættjörðin, mun upp rísa með þér—með fram fyrir þinn kraft, sem er guðs. Því að allr upprisukraftr kristinna manna kemr frá guði fyrir drottin vorn Jesúm Krist.

---

## *SÁLMR*

eftir *P. Gerhard.* Þýddr af séra Steindóri Briem.

---

1. Þú eilíf verðr eignin mín,
það óhætt má eg segja.
En drottinn tók þig samt til sín,
já, samt varzt þú að deyja.
Hann einn allt valdið átti á þér,
þig englar hófu burt frá mér,
minn son, þú, lífs míns lilja,
þú, ljós míns hjartans vilja.

2. Ef væri mínu valdi í,
eg vilja mundi' af hjarta;
að hjá mér yrðir enn á ný,
mín elsku-stjarnan bjarta.
Eg hrópa mundi: hjá mér ver,
mitt hús eg prýða vil með þér,
og þínu fari fylgja
skal föðurhjartans bylgja.

3. Eg unni þér af hjarta heitt,
en hvergi líkt sem drottinn;

mín elska' er svo sem ekki neitt,
af eigingirni sprottin.
Eg vesall faðir að eins er,
hann allt í sinni hendi ber,
sú lind, sem lífið gefr,
sú líkn, er aldrei sefr.

4, Ó, son minn, hvað eg sakna þín,
en sá, þig lífgað hefir,
til himna tók þig heim til sín,
þar hjá sér stað hann gefr;
og er eg græt mitt litla ljós,
hann lífsins fær þér gullna rós
og segir: barn mitt blíða,
þú búinn ert að stríða.

5. Ó, sæla, orð það ei eg skil,
hvað í því getr bundizt;
hjá guði að eins gott er til,
þar getr illt ei fundizt.
Hjá honum býr ei böl né sorg,
en blómin gróa' í lífsins borg;
hann faðm mót börnum breiðir,
úr böli' í sælu leiðir.

6. þótt börnin kæru viljum vér
æ vernda' og að þeim gæta,
þá hryggð vor mikil ætíð er,
þeim eitthvað kunni' að mœta.
Vér vitum ei, hvað verðr bezt,
og veljum það, er skaðar mest;
og því, er heitast þráum,
vér þrávalt ekki náum.

7. Æ, margt eitt barn svo blítt og kært,
sem bezt vér mundum treysta,
það spillist skjótt, því verðr vært
hjá vinum þeim, er freista.

það hæðir guð, en hatar oss,
og harðan býr oss raunakross
það út í glötun æðir,
en okkar hjarta blæðir.

8. það böl skal aldrei á mig fá,
þótt yrði' ei neitt úr vonum ;
minn son er geymdr guði hjá
og gengr um hjá honum.
Nú frið og gleði fær hann þar
og fagna mun til eilífðar ;
hann sér guðs engla alla,
sem okkr varna' að falla.

9. Hans litli munnr læra skal
að lofa guð og prísa
með englum guðs í gleðisal
hins góða, máttka, vísa.
Nú sér hann allt og vel hann vei
það vor á meðal enginn leit
og sem vér aldrei sjáum
unz sæluna' öðlast fáum.

10. Ó, væri' eg í horn eitt horfinn þar
og heyrt eg gæti óminn,
er hreifðirðu' engla-hörpurnar,
eg held eg þekkti róminn,
er syngir þú í sælli ró
um sælu þá, er guð þér bjó ;
eg gréti hátt af gleði,
en gréti' af fúsu geði.

11. Eg segði þá : minn son vert kyrr,
eg sé mig langaði' eigi,
að byggi hér mitt barn sem fyrr,
en bæði' á hverjum degi :
Ó, Elíasar ver hér vagn
og vinn þú minni sálu gagn;

flyt mig til hans og hinna,
sem hjartað kýs að finna.

12. Burt sorg og tár og angist öll!
Sá átti þig, er léði.
Þú býrð nú guðs' í himnahöll
í heilagleik og gleði,
ó, litla barn, hjá lambsins stól,
þar lífsins aldrei rennr sól;
eg bráðum kem, því kalla
mun Kristr til sín alla.



*Chicago.* Vegna sýningarinnar miklu er naumast nokkur borg á hnettinum nefnd eins oft um þessar mundir og Chicago. Það er ótal-margt merkilegt, sem nefna má í sambandi við þá borg, sem er lang-yngst af öllum stórborgum heimsins. Vér viljum benda á eitt. Chicago er *lúterskasta* borgin í Bandaríkjunum, það er að segja: lúterska kirkjan á þar fleiri áhangendr en í nokkurri annarri borg í þessu landi. Hún hefir þar 42,506 fermda meðlimi. Til samanburðar má geta þess, að biskupakirkjan hefir 10,400, presbyteríanska kirkjan 12,910, kongregationalista-kirkjan 11,935 og meþódista-biskupakirkjan 19,563. Tölur þessar sýna, að lútersku kirkjuna skortir að eins liðug 300 til að jafnast við biskupakirkjuna, meþódistakirkjuna og presbyteríönsku kirkjuna til samans í þessari vestlægu höfuðborg Bandaríkjanna. Takist nú lútersku kirkjunni að halda meðlimum sínum saman, þegar ensk tunga fer að verða tungumál þeirra á heimilunum og í kirkjunni, verðr viðgangr hennar fjarska-mikill um vestr-miðbik Bandaríkjanna, þar sem innflytendr frá lútersku löndunum einkum hafa staðnæmzt. Í trúarbragðalegu tilliti er Chicago eins og nokkurskonar andlegr mælir þess hluta landsins, sem fyrir vestan hana liggr, að minnsta kosti vestr að Klettafjöllum. Lúterska kirkjan á því afarmikla framtíð fyrir höndum hér í landinu, og fara hin blessanarríku áhrif, er út frá henni ganga, dagvaxandi vegna trúmennsku hennar við hinn opinberaða kristindóm. Fr. J. B.

Úr æfisögum hinna tveggja nývígðu presta kirkjufélags vors, sem upp voru lesnar samkvæmt hérlendum lúterskum sið um leið og prestvígslu-athöfnin fór fram á kirkjuþinginu í sumar, setjum vér þetta:

Séra *Jónas A. Sigurðsson* er fæddr að Ásgeirsá í Húnavatnssýslu 6. Maí 1865. Foreldrar hans eru hjónin Sigurðr Bárðarson og Guðrún Jónsdóttir, er nú búa í Gröf í Víðidal. Meðan hann var í foreldrahúsum komst hann í viðkynni við dr. Björn Ólsen, sem nú er kennari í Reykjavík, og móður hans, er þá bjó að Stóru-Borg í sömu sýslu, og fyrir áhrif úr þeirri átt fór hann í alvöru að hugsa til að menntast, og naut síðan nokkurrar bóklegrar tilsagnar hjá séra Jóni Þorlákssyni að Tjörn. Síðan gekk hann á búnaðarskólann í Ólafsdal, sem Torfi Bjarnason í mörg ár ár hefir veitt forstöðu, og útskrifaðist þaðan árið 1886. Ári síðar kvæntist hann og fór síðan af landi burt hingað í Vestrheim, eingöngu í því skyni að afla sér meiri menntunar en hann átti kost á heima á Íslandi. Hvattr hafði hann verið til að stunda guðfræði og gjörast prestr um það leyti, er hann hafði lokið búfræðisnámi sínu, en efna-ástæður voru þar í vegi. Þar á móti opnaðist honum vegr í þessa átt nokkru eftir að hann var kominn til þessa lands. Árið 1891 byrjaði hinn lúterski prestaskóli í Chicago, sem dr. Passavant og aðrir ágætismenn tilheyrandi hinni lútersku kirkjudeild *General Council* hafa komið á fót, og á þann skóla gekk séra Jónas, ásamt séra Birni B. Jónssyni það sama ár og næsta á eftir, og tók þar ásamt honum guðfræðispróf á síðastliðnu vori.

Séra *Björn B. Jónsson* er fæddr á Ási í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu 19. Júní 1870. Árið 1875 fluttist hann með foreldrum sínum, hjónunum Birni Jónssyni, bróður Kristjáns heitins Jónssonar, skáldsins, og Þorbjargar Björnsdóttur, vestr um haf til Nýja Íslands í Manitoba, og dvaldi þar með þeim til 1871. Þá fluttu þau þaðan til Winnipeg og síðan til Argyle-byggðar hér vestr í fylkinu, þar sem þau eru nú. Var hann upp frá þessu annað veifið burtu frá foreldrum sínum, ýmist í Winnipeg eða í Norðr-Dakota, og átti lengstum við bóknám. Vetrinn 1887—88 og nokkuð af næsta vetri las hann verzlunarfræði við *Business College* í Winnipeg. En árið 1889—90 stundaði hann nám

við *Gustavus Adolphus College*, lærðan skóla tilheyrandi hinni lútersku Augustana-synódu Svía í St. Peter í Minnesota, sem leiddi til þess, að hann ári síðar ákvað sig til að gjörast prestr í kirkjufélagi voru. Gekk hann svo á sama tíma og séra Jónas A. Sigurðsson á prestaskólann í Chicago og var ásamt honum útskrifaðr þaðan síðastliðið vor, svo sem áðr er sagt.

---

Mr. *William Edward Mead* kemr með hugleiðingar sínar um Ísland í Febrúar-nr.inu af *Atlantic Monthly*. Segir hann, að hinn ytri hagr landsmanna standi nálega eins og á dögum hinna fornu víkinga, en í andlegu eða upplýsingarlegu tilliti kenni þar furðulegra framfara, ef tekið sé tillit til afskekkju landsins og þess, hve eyðileg náttúran er. Og enn fremr segir hann: „Hinir lútersku prestar eru nálega allir bœndr, og eru lifnaðarhættir margra þeirra mjög lítið frábrugðnir sóknarbarna þeirra. Eru prestarnir flestir hörmulega fátœkir og geta naumast látið sál og líkama haldast saman. Nýjar bœkr eru þeim nærri því óþekkt munaðarvara. Eg man eftir einum mögrum og torkennilegum presti, sem lifði mesta eymdarlífi í hraunbyggð einni á suðrströnd landsins. Hann átti ekkert nema biblíu, sálmabók og fáeinar aðrar hálffúnar skrœður. Í einu horni prestsetrsins, þar sem vér náttuðum, var dyngja af hvalspiki, sem gjörði loftið þefillt og kom því til leiðar, að fátœkt húsráðanda sýndist enn þá meiri en hún var. Og þó hafði þessi maðr menntazt í latínuskólanum og kunni jafnvel ögn í ensku.“

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fjórði ársfjórðungr 1893.

6. lexía, sunnud. 7. Nóv.: Upprisan (1. Kor. 15, 12—26).
7. lexía, sunnud. 12. Nóv.: Kristilegt örlæti (2. Kor. 8, 1—12).
8. lexía, sunnud. 19. Nóv.: Eftirbreytni eftir Kristi (Efes. 4, 20—32).
9. lexía, sunnud. 26. Nóv.: Kristilegt heimilislíf (Kól. 3, 12—25).

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson* sendir "Sameininguna" út. Adressa hans er: 401 Ross St. Til hans snúi menn sér viðvíkjandi afgreiðslu blaðsins.

Menn borgi blaðið hr. *Magnúsi Pálssyni*, sem er féhirðir þess. Adressa hans er: 588 Jemima St. eða Harris block, Room 12, Cor. Main & Market St.

„*Aldamót*“, annað ar, gefið út af prestum kirkjufélagsins, ritstjóri séra Friðrik J. Bergmann. Rvík 1893. — Efnið í þessum árgangi tímaritsins er þetta: Fyrst er kvæði mikið og fagrt um *kirkjuna* eftir séra Valdemar Briem, sem er alveg einstakt í sinni röð í íslenzkum skáldskap. Næst er fyrirlestr eftir séra Hafstein Pétrsson, fluttr á ársþingi kirkjufélagsins í fyrra, um hinn fræga enska prest, Charles Haddon *Spurgeon*, sem þá var fyrir skömmu andaðr. Þá er prédikan eftir ritstjóra þessa blaðs, sem hefir þessa yfirskrift: *Að frelsast* og *að glatast*, út af Jóh. 3, 16—18. Þá er þar næst fyrirlestr eftir séra Steingrím Þorláksson, einnig fluttr á sama kirkjuþingi, og svarar höfundrinn þar upp á spurninguna: *Hvað viljum vér?* Og loks er ritgjörð, efnisrík og merkileg, eftir séra Friðrik J. Bergmann, ritstjóra *Aldamóta*, um *umburðarlyndi í trúarefnum*, sem sérstaklega hefir fengið lof í *Kirkjublaðinu* í Reykjavík. — Verð þessa árgangs *Aldamóta* er eins og hins fyrsta ein 50 cent; og þar sem ágóði allr af sölu ritsins á að ganga í skólasjóð kirkjufélagsins, þá er vonanda, að vinir kirkju vorrar styðji að því, að sem flestir kaupi það. Fyrir kvæði séra Valdemars Briems eitt er vel gefanda langt um meira verð en það, sem þetta hefti *Aldamóta* allt kostar.

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Böndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.